# Frásaga

## um þann merkiliga Biskup Latimer og sannleikans vidurkénnara, sem var í Englandi á hinni 16u øldu.

Hreinskilnin er í sérhvorju tilfelli hin stærsta Forsjálni, en það svonefnda umburdarlyndi verdur opt í heimi þessum sá ómberanligasti og skadligasti hlutur; og því geingur opt svo illa til, sem geingur, að þeir sem eiga um að vanda, umbera það sem ecki skyldi. Það er í frásøgu fært, að sá engelski Biskup Latimer hafi eittsinn, þegar hann prédikaði fyrir þeim lastafulla konúngi Henriki hinum 8da, tekið sér einn orðberann og óforblómaðann texta til að leggja út af, og hafi síðan í ræðu sinni fyrir sjónir sett, útmálað og straffað beint þær sømu syndir, í hvorjum þessi einvaldskonúngur, að allra vitund, þeckjanliga lifði. Ræðan géck að vísu konúnginum til hjarta, því sannleikanum er svo varið, að samvitskan, líka sem við annað bergmál, tekur undir hann, þegar hann með sínum krapti klíngir í eyrunum, og þetta skédur jafnvel ogsvo hjá þeim verstu mønnum, hvørjir þessvegna, (þegar þeir ecki vilja samt — heldurenn Pilatus — géfa sannleikanum rúm) illskast við hann og hata því framar þann, sem sannleikann seigir. Og svo géck það líka fyrir kóngi þessum. Hann vildi ecki auðmýkja sig undir Guðs hønd, og þessvegna lét hann kalla Latimer fyrir sig, og sagði til hans: „Þitt líf er í veði, ef þú ecki, þann nærstkomanda sunnudag, kallar það allt aptur í prédikun þinni, sem þú í dag

sagt hefur.“ Hof-fólk konúngsins, sem á þetta heyrði, varð fullt af laungun til að vita, hvernig þetta færi, og hvert útfall það feingi, og þreyngdi sér því, næst-fylgjanda sunnudag, í mesta fjølda inní kyrkjuna, sem annars var full af fólki fyrir. Nú las sá æruverðugi maður upp texta sinn, og síðan, eptir það hann þagað hafði litla stund, tók hann að tala svoleiðis við sjálfan sig: „gjættú nú að þér húgh Latimer! þú stendur hér að sønnu í nálægð þíns jarðneska einvaldskonúngs, og þitt líf er í hans høndi, svo, ef þú gjørir ecki eptir hans gédi, mun hann leiða þín gráu hár með blóði niður í jørðina. En gjættú að þér Latimer! þú ert hér ogsvo í nálægð konúngs allra konúnga og drottins allra drottna, sem til þín hefur sagt: „þú skalt ecki hræðast þá, sem líkamann deyðt géta, en sá svo ecki meira að verkum gjørdt, heldur óttastú þann miklu framar, sem líf og sálu deyðt gétur, og síðan kastað þér í helvíti, til að kveljast þar eilífliga. Eg seigi þér það, Latimer! óttast þú hann!“ síðan héldt hann áfram, og tók að prédika, og ecki einasta kallaði alls eckért aptur, af því sem hann áður sagt hafði, heldur heimfærði það líka svo, þar sem honum møguligt var, með stærstu alvøru-géfni, svo vel uppá sjálfann konúnginn, sem aðra. En hvør varð nú afleiðslan af þessu? Henrik konúngur lét aptur, sem fyrri, sækja Biskupinn og sagði til hans: „hvernig dyrfdist þú að níða svoleiðis út þinn einvalds-konúng?“ Latimer svaraði: „eg hugsaði: að ef eg findist Guði mínum ótrúr, þá væri það ómøguligt, að eg gjæti mínum jarðneska konúngi, nockra sanna trygð og hlýðni sýndt.“ Þegar konúngur heyrði þetta, faðmaði hann hinn gamla góða Biskup að sér og hrópaði upp,

seigjandi: „þar er þó einn einasti madur til, sem hefur svo mikla dierfúngu og ærligheit til ad bera, ad hann þorir ad seigja mér sannleikann!" — Er nú ekki þetta eptirtektaverdt dæmi? Þannig voru þeir gemlu píslarvottar einnig sinnadir; hverjir, ef nú á tímum lita mættu aptur upp úr gref sinni, og sjá þá hrædiligu hálfvelgju, sem nú drottnar í vidurkénníngu sannleikans, og í því ad straffa alvarliga syndir og lesti, mundi þeim ofbjóda. Þeir færstu af oss, eru ad vísu þeir, sem hafi ad sýsla vid konúnga og fyrir þeim ad prédika, en samt sem ádur géfast ýms tilfelli þaug, hvar þad kostar neckud, ad seigja afdráttarlaust sannleikann, og finna, án mannsgreinar álits, ad ógudligu líferni. Þad kostar opt vinskap og velvild annara, ad „straffa, ógna og áminna, í tíma og ótíma," og finna alvarliga ad löstum og ósidum, hver sem í hlut á, og þetta ecki ad eins í opinberum prédikunum, heldur ogsvo þar fyrir utan. Hversu mundu þeir, sem annadhvert af sérhlifni, edur af því ad þeir vilja ecki adra styggja, þetta vanrækja, fá stadist, ef vidurkénníng sannleikans skyldi, sem opt á fyrri tímum, kosta þá líf, æru og góts? hverjir mundu verda fyrri til ad afneita Christi, enn slikir leigulidar? Ödruvísi breytti Stephanus fordum (Pgb. 7), þegar hann stód fyrir því stóra rádi í Jerúsalem, sem hatadi kénníngu hans og annara, útaf Jesú; edruvísi Páll Postuli, þegar vinir hans vildu aptra honum frá, ad fara til Jerúsalem, hvar þeir vissu ad honum mundi stærsti lífsháski búinn verda (Pgb. 21, 13); já edruvísi hinn sæli Lúther, þegar hann átti, í Worms 1521, ad forsvara lærdóm sinn móti Páfadóminum frammi fyrir sjálfum keysaranum og ellum þeim ædstu furstum og herrum

þess þydska ríkis, og þar á ofan fyrir þeim, sem þar var fullmektugur fyrir páfans hönd, og margir af vinum Lúthers, ædri sem lægri, rédu honum til, ad láta nockud undan þeim papisku í kénníngu sinni, þar annars sýndist eckért annad fyrir honum liggja, enn hersiligasti og kvalafylsti daudddagi, þá svaradi hann: „Þar sem keysarans hátign, og allir þeir stóru chúrfurstar og furstar (sem hér nálægir eru) heimta ad eg gési beint og skýlaust andsvar til þess, hvort eg vilji ecki apturkalla nockud af skrifum mínum (móti páfadóminum)? þá svara eg svoleidis: svo framt og verd ecki med vitnisburdi heil. Ritníngar, edur ödrum augljósum og skýrum röksemdum, sigradur og sannfærdur (um, ad eg hási rángt kéndt), þá hvorki gét eg né vil neitt apturkalla, því þad er ecki rétt, ad madur gjöri nockud móti samvitsku sinni. Hér stend eg, og kann ecki annad (andsvar ad géfa), enn þetta. Gud hjálpi mér! Amen!"

Þannig taladi og breytti sá hugprúdi Lúther. En til ad sýna enn framar dæmi til óveikanligs stöduglyndis í sannleikans vidurkénníngu, vil eg hér vidbæta merkiligri frásögu um mann nockurn, sem píslarvottur vard á dögum hins ádurnefnda konúngs Henriks 8da. Hann hét Róbert Glóver, kominn af gofigum ættstofni i Manchester á Englandi. Á þeim tímum voru flestallir katólskrar (þad er papiskrar) trúar í því landi, hvörjir ed ofsóktu hrædiliga þá, sem þaug nýuppkomnu evangelisku trúarbrögd tekid höfdu, medal hvorra var ádurnefndur Róbert Glóver og bródir hans. Eittsinn voru menn útsendir til ad taka bródur hans til fánga, hvor ed þó gat slúid, adur enn óvinirnir komu. En Glóver lá sjúkur, og gat því ecki fordad sér, hvar fyrir þeir tóku

hann til fánga, í bródur hans stad. Merkiligt næsta er bréf þad, er hann úr þessu fángahaldi skrifadi konu sinni til, í hvorju hann kémst svoleidis ad ordi: „Christur hefur samlíkt Guds ríki vid eina dýrmæta perlu, fyrir hvorja sá vitri madur, er hana fann, seldi allt hvad hann átti, til ad kaupa hana med. Hver sem nú hefur nockra tilfinníngu þess, hvorsu dýrmætur fésjódur ad himnaríki er, hann mun gjarnan vilja fyrir þad géfa, allar eigur sínar og jafnvel lífid sjálft. En því midur, ad margar manneskjur eru líkar hananum í Æsóps dæmisøgu, sem einusinni fann edalstein, en æskti hann heldur fundid hefdi bygg-korn. Þeir vita svo lítid af reynslunni um þá dýrmætu perlu Guds orda, ad þeir meta lángtum meir muni þessarar veraldar; hvorjir þó í samanburdi vid Guds ord, eru minna enn bygg-korns verdi hjá dýrmætasta edalsteini.“ Sídan var Róbert leiddur fyrir þann katólska Biskup, hver ed sagdi vid hann, ad þar hann væri Biskup hans, þá ætti hann ad trúa sér (til þess, sem hann segdi honum um trúarbrøgdin); en fánginn svaradi: „ef þér heimtid, ad eg skuli trúa ydur, fyrir þad þér erud Biskup, hvorsvegna lastid þér þá fólk fyrir þad, ad þad trúir því, sem Latimer og Hooper kénndu því, þar þeir voru Biskupar, eins og þér?“ eptir þetta var Róbert settur í fángelsid í Lithfeld, um hvert hann skrifar svoleidis: „þad er þraungt, hardlæst, ysrid kaldt og ljóslaust hreysi; knyppi af hálmi er þar í stadinn fyrir sæng; þar er einginn stóll edá neitt af neinu.“ Í þessu fángelsi var hann, þartil Biskupinn hafdi lagt dóm yfir hann, hvors ord ad voru þessháttar: ad hann vildi alla þvílíka úlfa uppræta. Á þennann hátt var nú af þeim katólsku med þennann mann farid, án þess hann hefdi hid minsta til þess unnid, annad

enn það, að játa sannleikann. Átta daga sat hann í fángelsinu, þartil Biskupinn kom. „Þennan tíma — svo skrifar hann sjálfur — brúkaði eg einúngis til að biðjast fyrir, og til að hugsa um þaug fyrirheit, sem Guðs orð fortakslaust gefur öllum þeim, sem ákalla nafnið Jesú Christi. Dagliga fann eg til þess, að minn líkami styrktist, og friður samvitsku minnar jókst, fyrir heil. anda krapt og huggun Guðs orða. Stundum hafði eg í mér forsmeck af krapti þess eptirkomanda lífs, fyrir Jesú Christi Guðs sonar sakir. Honum sé dýrð ætíð og að eilífu! Samt lét ecki minn sálar óvinur af, þráfaldt að offækia mig, og brígsla mér í minni samvitsku um það, hvað óverðugur eg væri í Guðs augliti, og einganveiginn makligur þeirrar stóru náðar og æru, að verða einn þeirra, sem fyrir Christs sakir og hans evangelii píslir og dauða liðið hafa. En eg svaraði honum þá aptur, af Guðs orði, þannig: hvílíkir hafa þeir allir verið, hverja Guð frá upphafi útvalið hefir, til að vera sína votta? Voru þeir ecki, eins og Páll og Barnabas vitnuðu um sig: allir dauðligar manneskjur, (Pgb. 14, 15), sem voru syndum og öllum mannligum ófullkomligleika, eins og aðrir, undirorpnir? þeir gátu ecki, heldur enn aðrir neitt gott, af sjálfsdáðum, fyrir Guð framborið, heldur urðu allt af honum að þyggja. Þeir höfðu ecki fyrst útvalið Guð, heldur hafði Guð útvalið þá. Þeir höfðu ecki elskað Guð að fyrrabragði, heldur hafði Guð fyrst elskað þá. Já, hann elskaði þá og útvaldi, þegar þeir ennþá voru hans óvinir, fullir synda og saurugleika, án þess að hafa neitt gott til að bera. En hann er og mun verða þó hinn sami Guð, ennnú, sem áður, fullur miskunar og megins, til að hjálpa; hann er ennnú, sem fyrri, reiðubúinn og fús til að fyrirgéfa syndirnar, án manngreinar álits, öllum sem hann ákalla, allt til heimsins enda. Guð er nálægur öllum og skúfar eingum frá sér, hvor heldst sem er, og hvar í heiminum sem hann finnst, eður finnast mun, sem annars, í sannri iðrun og trúnni á Jesúm, ákallar hann. Það er því eingin ofdyrfska, þó maður setji Guði hans fyrirheit fyrir sjónir, og hrópi til hans um aðstoð og hjálp, í allskonar hörmúngum lífs og sálar. Vér tökum oss því eckl ofmikið fyrir hendur, þegar vér köllum

til hans, ekki í trausti vorrar eigin gudrækni, heldur í trausti hans eigin fyrirheita, sem hann oss í Jesú Christo géfid hefur. Því hvor sem i Christo og hans vegna, hughraustur nálgast nádarhástól fødursins, hann má viss um vera, ad ødlást þad allt, sem hann fyrir líkama og sálu vid þarf; og þad allt betur og fullkomligar, enn hann fær óskad og eptirvænt. Guds ord kann ekki ad ljúga, þar hann seigir: ákalla mig í neydinni, þá vil eg hjálpa þér, og þú skált vegsama mig!"

En framar seigir Róbert í bréfi sínu, ad hann svarad hafi freistargnum, á þennann hátt, sem fylgir: „eg er ad vísu syndari, og þar fyrir ekki verdugur þess, ad vera vitni þess himneska sannleika; En hvad flýtur þá þar af? skal eg þá afneita ordi hans, af því eg ekki er verdugur ad vidurkénna þad? mundi eg þá ekki hlada synd á synd ofan? Eda hvor synd gétur stærri verid, enn sú, ad afneita sannleika þess heil. Evangelii? seigir ekki Christur sjálfur: hvor hann skammast sín fyrir mig og mín ord, fyrir þann sama mun eg líka skammast mín, fyrir mínum fødur og hans heil. Einglum (Marc. 8, 38). Uppá sømu ástædur kynni eg því ad skammast mín ad halda Guds bodord, þar eg ekki er verdugur til ad halda þaug. Þetta er þessvegna ekki nema tøfrar djøfulsins og innblástur hans, sem madur hlýtur med óaflátanligri bæn, og Guds orda krapti ad yfirvinna; því Guds ord hlýtur hvor einn ad brúka, eptir sinni gáfu, gégn áhlaupum diøfulsins." Þetta allt fanst nú skrifad eptir Róbert. Skømmu fyrir sinn píslarvættis dauda, hlaut hann þó ad finna til þess, ad sømu efasemdir uppkomu í sálu hans, ad nýu. Fyrir þeim manni sem hét Augustin Berner, hvor mjøg kostgiæsiliga heimsókti þá, sem lidu fyrir Christs sakir, þegar honum var þad meguligt, fyrir hønum játadi Róbert, ad hann midt í øllum sínum bænum dag og nótt, findi ekkért hjá sér, nema eintóma hjartans deyfd, og skort allrar gudligrar huggunar. Berner bad hann þá mjøg inniliga, ad bída eptir Guds velþóknanliga tíma, og ekki efast um þad, ad Gud mundi á sínum tíma þó aptur vitja hans, og sedja hann med ríkugligri hugsvølun. Já, hann bad hann allareidu fyrirfram, ad hann skyldi jafnvel géfa sér merki

til þess, þegar þessi guðliga huggun yrði honum veitt, áður enn hann léti lífið; því hann taldi það víst, að hún honum veitt yrði. Róbert barðist síðan við efa sinn, og innvortis huggunarleysis myrkur sem áður; en samt gaf Guð honum nóga krapta, til þess að vera trúr í áformi sínu (nefniliga í því, að láta lífið fyrir sannleikans sakir). Heilu nóttina í gégn (áður hann var aflífaður) var hann á bæn til Guðs; og allareiðu hafði hann, að komanda morgni, aftöku-staðinn fyrir augum sér, á hvörjum hann átti lífið að láta, og þó, midt í öllu þessu, lá samt, enn sem áður, óþolandi byrði á hans hjarta. Hann var að sönnu niðursleiginn, en samt ekki yfirgéfinn. En svosem það opt ber við, að, eptir dimmann og stormasamann dag, kémur að kvöldi stillt og mild uppbyrting, og sú undirgángandi sól sendir blídt og fagurt geitslaskin yfir mannanna höfuð; svo skédi það og svo hér. Þaug síðurstu lífsins augnablik þessa trúarfulla píslarvotts urðu uppljómuð af Guðs náðar byrtu; því allt í einum hasti varð hann af huggunum Guðs anda kroptugliga uppfylltur, og hönum veittur forsmeckur himneskrar gleði og sælu. Hann klappaði þá saman höndunum, sneri sér til vina sinna, sem stóðu þar meðal fólksfjöldans, og hrópaði: „Augustín! nú er hann kominn! nú er hann kominn!“ Og þetta gjörði hann með þvílíkum fögnuði og feiginleika, rétt eins og hann frelsaður væri frá öllum ótta fyrir dauðanum að öllu leiti, en ekki eins og sá, eptir hvörjum nú, á samri stundu, bíðu píslir hins kvalafyllsta dauða, er hann líða skyldi. Hann dó síðan sem píslarvottur fyrir þá evangelisku trú, og var brendur í Conventry þann 20da Septemb. 1533. Guði sé lof, sem sína trúaða styrkir svo dásamliga!

---

Evangelisk Smárit frá byrjun Nr. 58, eru að fá í Reikevík, á Flatey á Breið-firði, á Eyafyrði og á Reiðarfyrði géfins, fyrir þá, sem taka þaug þar sjálfir, en þeir sem þurfa að senda þaug nockuð lángann veg, meiga taka 1 ß fyrir 1 ark hjá þeim sem viðtaka, ef vilja.

Kaupmannahöfn, 1843. Prentað hjá S. L. Møller.